# Minníng Jesú Christs.

Postulinn Páll áminnir alla christna menn svo: Haf í minni Jesúm Christum! O eina allra dýrmætustu áminníngu, sem oss ætti ógleymanlig ad vera! því þessi Jesús Christus, hann er:

1) Höfundur vorrar sáluhjálpar, þar hann, med sinni fórnfæríngu á krossinum, fridþægdi fyrir syndir vorar.

2) Vor Árnadarmadur hjá sínum himnesska Fødur, í krapti sinnar fullkomnu fridþægíngar.

3) Vor af Gudi tilsetti Dómari á sídarsta deigi. Þessvegna ætti minníng hans oss, sem sialdnast, úr huga ad fulla. Gud gjæfi ad svo væri!

En hvad er þad þá, ad minnast Jesú?

Ecki er þad nóg ad muna til þess, ad hann hafi um hríd hér á jordunni verid, en sé nú til Guds hægri handar upphafinn; heldur verdur madur ad minnast:

a) allra hans Velgjörnínga, med innilig-ásta og elskuríkasta hiartans þacklæti.

b) allra hans Bodorda, med fúsustu og kostgiæfnustu verkanna hlýdni; og

c) alls hans Lifnadarmáta, med alúdar-fyllstu og audmjúkustu eptirbreytíngu.

Nú er hans stærsti velgjorníngur af öll-um,. sá, ad hann pindist og dó til forlíkunar fyrir vorar Syndir; hvörsvegna ad endur-minníng þessa hans velgjorníngs ætti ad vekja hjá oss:

1) Lifandi Trú og Traust á þessa hans forlíkunargjord vor vegna, svo sem þad ein-ársta dugliga medal, til ad finna nád hjá Gudi í Lífi og dauda.

2) heita Elsku og Kiærleika til hans fyrir þessa hans ómetanligu velgjord oss til handa; án hvorrar Elsku, ad Trúin á hann er oldúng-is daud og dádlaus.

3) hreinskilna Hlýdni vid hans heil. lærdóma, skipanir og setníngar, hvor hlýdni ad audsýni sig þá og framqvæmist:

a) innvortis í vorum þaunkum og gyrnd-um; ad vér sem optast kappkostum um hann ad hugsa, og láta oss eptir því lánga, sem sam-hýdur vilja hans og þénar til hans dýrdar í öllum hlutum, en fordast og frá sér skúfa þeim þaunkum og gyrndum, sem þar á móti strída, svo þær ecki í oss drottni, edur af oss sam-þicktar verdi.

b) útvortis; fyrst med ordum vorum og tali, ad vér gjarnast um þad rædum, sem verd-ugt er hans dýrd og vorri Trú, svo tal vort verda meigi til uppbyggíngar ödrum, en ei hneigslis. Þar nærst med verkum vorum og

athøfnum, er þvílíkum ordum og þaunkum sam*bjóda skulu, til vitnisburdar um ad vér geymum góda samvitsku.

En þessháttár verk eru serdeilis:

1) Réttlætis verk, ad vér í øllum tilfell*um áftundum rétt ad gjøra, vid hvørn helst sem í hlut á, til dæmis:

Séum hlýdnir vorum yfirbodurum án møglunar og undanfærslu; séum hollir og bót*gódir vorum jafnínajum, án øfundar og flá*rædis; séum saunsýnir og vorkunlátir vid þá minni máttar, án fylgis edur ósláttar.

2) Kjærleikans verk, sem audsýni sig í medaumkun vid þá naudlídandi; í gódgjørdum vid þá þurfandi; í heilrædum vid þá fáráðu; í huggunum vid þá sorgbitnu; og yfir høfud á hvørn hátt, sem vér kunnum, med rád edur dád, ad bæta úr vorra naudlídandi brædra bøli, án naudúngar og eptirtalna, án tillits lofs edur lasts. Loksins eru

3) Gudrækins verk, er vér, eptir Jesú bodum, eigum ad stunda, ef vér viljum hans réttiliga minnugir vera. Þaug eru

A) Guds Ords ydugliq Rækni, med heyrn þess og lestri, bædi i kyrkjunni og vo*rum eigin húsum; hvor heyrn þess og lestur ské verdur, ef hann skal oss ad notum koma, med hjartanligri audmýkt fyrir Gudi, med gaum*gjæfiligri eptirtekt þess heyrda edur lesna ords, og med alvarligasta ásetníngi, ad laga lifnad vorn þar eptir, í øllum greinum.

B) Bænarinnar kostgjæfilig ydkan, án hvørrar øll Guds orda lesning, og sjálf dygd*arinnar æfing, verdur sem nyt fyrir utan kjarna. En sú bæn, ef hún skal Gudi þóknast, hlýtur

ad ské: a) med innilígri ydrun fyrir syndir vorar Gudi á móti; b) med sannri Trú og Trausti uppá Guds miskun, vegna Jesú medalgaungu; og c) med alvarligum ásetníngi gudligs líffernis. Því ón þess bæninni fylgi þetta þrenut, er hún eintómis hræsni og synhelgi.

C) Andagtug brúkun Jesú Kvøldmáltídar, hvorja hann sérilagi innstiptad hefur til sinnar Endurminníngar. En skuli hún verdugliga brúkast, þá blitur — 1) Tilreidslan til hennar ad vera hin dyggiligasta, med blífnislausri sjálfsprófun, ydrun og bæn. 2) blýtur sjálf Hantjeranin, ad vera full af audmýkt, þacklæti og lofgjørd, Endurlausnaranum til handa; og 3) blýtur líka ávaxtarfærslan á eptir, þessu ad svara; svo Jesú minníng verdi þess minnisfastari sálunni, sem hún optar fær ad mettast og dryckjast. af hans heil. holdi og blódi, sem i kvøldmáltídinni veitist.

Þannig skal nú, Christin Manneskja, hafa Jesúm i minni, og þad allt til daudans; hvørs undirbúníngur er þá i sømu æfingum innifalinn, og þá verdur daudinn vissuliga þvílikri manneskju inngángur til eilífs lífs. Blessadur er sá og farsæll, sem þessum rádum fylgir; já blessadur mun hann verda bædi í lífi og dauda, um tíma og eilífd!

Þad veiti Gud øllum, fyrir Jesúm Christ! Amen!